ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands m-l 19. tbl. 5. arg. 1976

Verð 100 kr.

Í næsta tölublaði Stéttabaráttunnar verður birt grein um baráttu PLO.

Ritnefnd blaðsins vill ítreka við alla þá sem senda blaðinu greinar að taka tillit til skilafrests handrita - þetta er mjög mikilvægt atriði í þegar reynt er að gera útkomu blaðsins reglubundna. Næsta blað kemur út 15. nóv. Handrit verða að berast fyrir 13. nóv.

# Baráttulína sigrar innan ASB - Uppgjafastefna stjórnar bíður algeran ósigur

Eins og fjallað hefur verið um í Stéttabaráttunni hefur í kjölfar baráttunnar gegn fjöldauppsögnum afgreiðslustúlkna í mjólkurbúðum fylgt barátta gegn uppgjafastefnu stjórnar ASB. Fyrst skarst virkilega í odda þegar meirihluti stjórnar félagsins neitaði að styðja aðgerðir Samtakanna gegn lokun mjólkurbúða, er þau gengust fyrir kröfugöngu og fundi í síðasta mánuði. Ennfremur gerði meirihluti stjórnarinnar allt sem hún gat til að koma í veg fyrir að önnur verkalýðsfélög styddu aðgerðirnar, með þeim árangri að aðeins eitt félag í Reykjavík, Sókn, studdi þær. Þarna afhjúpaði meirihlutinn, undir forystu Hallveigar Einarsdóttur, þá ætlan sína að vinna ekki gegn uppsögnunum og makka við atvinnurekandann og verkalýðsaðalinn í stað þess að hefja baráttustefnu til vegs.

Þegar þetta varð ljóst, ákváðu baráttufúsar afgreiðslustúlkur, undir forystu Lilju Kristjánsdóttur, að bjóða fram lista til ASÍ-þingsins, sem jafnframt yrði vantraust á stjórnina.

Þrátt fyrir að listi stjórnarinnar gerðir allt sem hægt var til að rægja niður lista Lilju, sigraði hann með miklum meirihluta atkvæða. Hallveig, og um leið Þjóðviljinn sem studdi hana og rak áróður gegn Lilju, gerði það að aðalinnihaldi áróðurs síns að það væru "utanaðkomandi öfgaöfl sem stæðu að baki mótframboðinu." Þetta er gömul lumma stéttasamvinnumanna er þeir vilja verja klofningsstefnu sína að reyna að níða andstæðing sinn niður með því að kenna hann við einhver öfl sem eru framandi verkalýðshreyfingunni. En afgreiðslustúlkur létu ekki blekkja sig, og Stéttabaráttan lýsir fögnuði sínum með þessi úrslit kosninganna.

Þau eru þess gleðilegri að ASB var eina verkalýðsfélagið þar sem boðnir voru fram tveir listar, þar sem baráttustefna og stéttasamvinnustefna áttust við. Við erum þess fullviss að sendisveit ASB á ASÍ-þinginu mun halda línu stéttabaráttu hátt á lofti þar.



Lilja Kristjánsdóttir




Hua Kuo-feng.

# KÍNA: Mikill sigur fyrir verkalýðsstéttina

Baráttan sem farið hefur fram í Kína, að Maó formanni látnum, virðist í fljótu bragði hafa gosið upp mjög skyndilega. En reyndin er önnur. Allt síðan í fyrrahaust hafa milljónir funda verið haldnir, þar sem deilumálin hafa verið rædd. Fundir hafa líka verið haldnir í öllum nefndum flokksins. Og þessir fundir hafa ekki verið neinir saumaklúbbar og kurteisishjal. Þar hefur átt sér harkalegt uppgjör við ranga afstöðu. Þeir sem hafa fetað brautir kapitalismans hafa verið gagnrýndir og skoðanir þeirra afhjúpaðar. Smám saman hafa stéttaróvinirnir innan flokksins einangrast og tapað tiltrú fólksins. Sigur marxismans- leninismans kemur í kjölfar umfangsmikilla og djúptækra umræðna, lokauppgjörið við fjórmenningana Chiang Ching, Chang Chung Chiao, Wang Hung Wen og Yao Wen Yuan er aðeins framkvæmd þeirra ákvarðana, sem meirihluti flokksfélaga og alþýðufólks hefur tekið.

UM HVAÐ SNÚAST DEILURNAR?

Baráttan gegn Teng Hsiao-peng hófst fyrir alvöru í sept. í fyrra. Þá snerust stúdentarnir við Tsinghua háskólann gegn afturhaldssamri línu hans í menntamálum. Hugmyndir Tengs og fylgifiska hans, um að verkalýðurinn ætti ekkert erindi í háskólana voru afhjúpaðar og brennimerktar sem svik við sósíalismann og línu Maó formanns. Ennfremur birtust svik Tengs í því, að hann lagði ofuráherslu á framleiðsluaukninguna, á kostnað stéttabaráttunnar. Fyrir honum gilti það einu, hvort verkalýðsstéttin réði ferðinni eða borgarastéttin, aðeins ef framleiðslan ykist og velferð væri tryggð. Teng skildi ekki, að verkalýðnum einum er fært að tryggja meirihluta þjóðfélagsins velferð og lýðræði. Borgarastéttin skapar aðeins velferð fyrir minnhlutann og lýðræði fyrir sig sjálfa. Baráttan gegn stefnu Tengs var mörkuð mjög skýrt á ráðstefnu sem kennd var við fyrirmyndar-kommúnuna Tachai, en hún var haldin í okt. 1975. Þar flutti félagi Hua Kuo-feng aðalræðuna og leiddi baráttuna gegn afturhaldssömun hugmyndum Tengs. Hua markaði stefnu, sem í meginatriðum var áframhald og dýpkun á stefnu 10. flokksþingsins Hun fólst í því að leggja megináhersluna á styrkingu og vélvæðingu landbúnaðarins, til að tryggja þannig grundvöll iðnaðarins, tækniþróunarinnar og landvarnanna. Hua markaði stefnu, sem byggði á niðurstöðum flokksþingsins og var algerlega andstæð "framleiðslu aukningunni" sem Teng Hsiao Ping gerði að markmiði sínu. En eftir að Teng hafði verið afhjúpaður og sviptur embætti í apríl 1975, hélt baráttan áfram. Félagar flokksins voru nefnilega ekki sammálj um það hversu langt ætti að ganga í baráttunni gegn "hægri

Framhald á síðu 2.

# SSÍ undir stjórn sjómanna

Á þingi sjómannasambandsins (SSÍ) sem haldið var dagana 22-24 okt s. l. urðu miklar sviptingar. Þeim lauk með því að fulltrúar fyrri stjórnar voru felltir í svo til öllum kosningum um trúnaðarstöður á vegum sambandsins. Gunnar Hallgrímsson og Hilmar Jónsson sem báðir eru í stjórn Sjómannafélags Reykjavíkur (SR)voru þó endurkosnir í aðalstjórnina þar sem rétt þótti að SR hefði tvo fulltrúa af 10 sem í stjórninni sitja. Forseti sambandsins var kjörinn Óskar Vigfússon formaður sjómannafélags Hafnafjarðar, en hann nýtur mikils trausts meðal starfandi sjómanna. Reynslan hefur sýnt að hann er skeleggur baráttumaður fyrir málefnum þeirra. Óskar var einn af leiðandi mönnum samstarfsnefndar sjómanna sem stjórnaði heimsiglingu flotans fyrir rúmu ári síðan. Þau viðbrögð sem fyrri stjórn sýndi(og ber þá sérstaklega að geta þáttar"sjómannsins síkáta"Péturs Sigurðssonar afhjúpuðu fyrir sjómönnum eðli og innræti forystuliðsins. Í stað þess að styðja sanngjarnar kröfur samstarfsnefndarinnar og gera þær að sínum, eins og krafa sjómanna var, þá réðst forystuómyndin hjá SR á nefndina og reyndi að gera allt sem hún gat til að einangra þau félög sem höfðu stutt hana. Með ofstopa tókst Pétri Sigurðssyni og félögum að koma í veg fyrir að fulltrúi frá Sjómannafélagi Hafnafjarðar fengi sæti í stjórn DAS nú í vetur og er það í fyrsta sinn í sögu þess. Þegar haft er í huga að DAS stendur núna í miklum byggingarframkvæmdum í Hafnarfirði verður sú ráðstöfun enn undarlegri.

Pétur hefur nú í sumar nýtt allan sinn tíma til að finna einhvern þægan lepp í forsetastólinn svo hann gæti sjálfur stjórnað bak við tjöldin að hætti Ingólfs Stefánssonar hjá Farmanna og fiskimannasambandinu. En þrátt fyrir allt hans brölt fór svo að lokum að svo til öll sjómannafélög landsins sameinuðust um Óskar Vigfússon. Virkustu félögin höfðu lýst yfir stuðningi við hann þegar í ágúst-september, en forysta annarra félaga snérist á sveif með honum vegna



Óskar Vigfússon

Framhald á síðu 2

AZANÍA: PAC LEIÐIR FRELSISBARÁTTU ALÞÝÐU bls. 4.

SAMTÖK HERSTÖÐVA ANDSTÆÐINGA STOFNUÐ bls. 2.

VIÐTAL VIÐ DAGNÝJU JÓNSDÓTTUR bls. 3.




Stéttabaráttan 19. tbl.
5. árg. 4/11. 1976.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega.
Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík.
Sími: 27810.
Ritstj. & ábm: Ólafur Ingólfsson
Gíró: 27810.

Framhald af forsíðu;
Kína mikill sigur....

vindunum" sem svo voru nefndir. Sumir vildu að uppgjörið við línu Tengs næði líka til Io. flokksþingsins og afneitaði línu þeirra sem Chou En-lai lagði fram í ræðu sinni til þingsins. Þeir sem vildu ganga svo langt, fylgdu Chiang Ching og fjórmenningunum að málum. Um þetta snerust deilurnar. Átti að hafna niðurstöðum flokksþingsins, sem kvað um, að Kína skyldi vera orðið fremsta iðnríki veraldar um næstu aldamót, eða átti að framfylgja þeim? Þetta er deilumálið.

Teng Hsiao Ping gekk auðsæilega of langt, þegar hann vildi framfylgja stefnu þingsins á þann hátt, að verkalýðsstéttin missti forystuhlutverk sitt. Á bóginn höfnuðu Chiang Ching og félagar hennar stefnu þingsins, á þeim forsendum, að niðurstöður þess væru í anda Teng-Hsiao-pings.

Hua Kuo-feng framfylgdi stefnu þingsins, þess minnugur, að frumskilyrðið var völd og forystuhlutverk verkalýðsstéttarinnar.

Styrkur miðstjórnarinnar er fólgin í réttri línu og tilstyrk verkalýðsins.

Í apríl 1976, var haldinn fundur miðstjórnar flokksins, sem ræddi baráttuna gegn Teng Hsiao-ping. Þar voru tvö mikilsverð skjöl samþykkt og send út til fjöldans sem ákvörðun flokksins. Hið fyrra kvað á um, að Teng væri sviptur öllum embættum innan sem utan flokksins. Hið síðara kvað á um að félagi Hua Kuo-feng hefði verið kjörinn forsætisráðherra og fyrsti varaformaður miðstjórnar flokksins. Stefnan sem Hua lagði fram á Tachai-ráðstefnunni í október árið áður, hafði unnið fylgi meirihlutans innan miðstjórnarinnar. Maó formaður átti sjálfur tillöguna að skipun Hua Kuo-fengs í embættin og sýnir það ljóslega, að hann var á sama máli og eftirmaður hans. En þótt fyrri ákvörðun miðstjórnarinnar væri niðurstaða af margra mánaða umræðum, var hin síðari það ekki. Allir voru á einu máli um að Teng hafði valið braut kapitalismans. Hins vegar var sundurþykki um það hvaða leið skyldi velja í staðinn. Baráttan blossaði upp að nýju og milljónir verkamanna, bænda og hermanna kappræddu um þær tvær stefnur sem fram höfðu komið í baráttunni gegn Teng. Undir haustið hafði lína Maós og Hua fengið algera yfirhönd og Chiang Ching og fylgismenn hennar voru einangraðir og sviptir tengslum við fjöldann. Það var þó ekki fyrr en eftir andlát Maó formanns, sem lokauppgjörið hófst. Þá reyndu fjórmenningarnir að þröngva fram stefnu sinni og ná til sín lykilstöðum í flokksforystunni. En þeir höfðu verið sviptir fylgi fjöldans og þar með pólitískum grundvelli sínum og barátta þeirra innan miðstjórnarinnar var fyrirfram dæmd til að mistakast. Þá gripu fjórmenningarnir til þess bragðs að reyna valdatöku með ofbeldi. Þessi fyrirætlun þeirra beið algert skipbrot og var fullkomlega brotin á bak aftur. Hefði þeim lánast að taka völdin með vopnum, hefði það óhjákvæmilega táknað blóðuga innanlandsstyrjöld. Kínversk alþýða er vopnuð og hún lætur engan stjórna sér með vopnum. Þeir sem það reyna, munu verða máðir út.

Kosning Hua Kuo-fengs er því framar öllu afleiðing af réttri pólitískri stefnu hans og stuðningi milljónafjöldans við hana. Hua er fulltrúi marxismans-lenínismans í Kína, sigur stefnu hans yfir þeim sem feta brautir kapitalismans táknar staðfestingu alræðis öreiganna í Kína. Það er heimssögulegur sigur verkalýðsstéttarinnar yfir borgarastéttinni.

Fréttamennska á vesturlöndum

Á meðan á baráttunni stóð, kom hver "Kína-sérfræðingurinn" af öðrum með kviksögur sínar og lygafregnir. Ófærir um að skilja stéttabaráttuna veltu þeir sér upp úr spámennsku og illkvittnum lygum. Hua Kuo-feng varð í munni þeirra að "miðjumanni" til þess að sætta "róttæka arminn og hæfgara arminn" fréttir um líflát fylgismanna Chiang Ching voru breiddar út og reynt að nota tækifærið til þess að gera Kína tortryggilegt í augum umheimsins. En slíkar tilraunir munu ekki takast. Hua var ekki valinn vegna þess að hann stóð í broddi fylkingar fyrir marxískri-lenínískri línu og þjónaði hagsmunum verkalýðsstéttarinnar. Ekkert hefði verið fjær Mao formanni, en að leggja til, að borgarastéttin og verkalýðsstéttin yrðu sættar með einhverjum "miðjumanni" Maó formaður lagði traust sitt á félaga Hua Kuo-feng, af því að hann túlkaði hagsmuni verkalýðsstéttarinnar og flokksins gegn borgarastéttinni og fulltrúum hennar innan flokksins. Í bréfi sem Maó formaður skrifaði eigin hendi til Hua Kuo-feng þann 30. apríl 1976, segir hann: "Mér er rótt, því ég veit að þú hefur völdin." Maó lagði sjálfur til að Hua yrði valinn formaður, því hann var vel á varðbergi gegn hættunni á valdatöku fjórmenninganna. Hefðu þeir náð völdum, hefði það óhjákvæmilega táknað að flokkurinn hefði orðið endurskoðunarstefnu að bráð, landið hefði breyst í kapitalískt heimsveldi - alla vega í bili. Þess vegna er sigurinn yfir andflokksklíku Wang-Chang-Chiang Yao mikill sigur fyrir kínverska alþýðu og alþýðu heims

SSÍ undir stjórn sjómanna
framhald af forsíðu

þrýstings frá starfandi sjómönnum.

En Pétur sjómaður hafði enn ekki gefist upp og fékk nú Björn Jónsson forseta ASÍ í lið með sér. Sagt er að þeim hafi í sameiningu tekist að fá Karl Steinar varaalþingismann Alþýðubandalagsins þýðuflokksins í Reykjaneskjördæmi í framboð. Á þennan hátt reyndi Pétur enn einu sinni að leika þann gamla leik að sundra einingu sjómanna með því að draga íslenska þingflokkapólitík inn á sjómannasambandsþing. Er ljóst var að sjómenn og fulltrúar þeirra voru ekki tilbúnir til að selja hagsmuni sjómanna dró Karl Steinar sig til baka. Hilmar Jónsson formaður SR var þá settur í framboð en hann fékk 19 atkv (þar af 13 frá RVK) á móti 34 atkv sem Óskar hlaut. Aðrar atkvæðagreiðslur á þinginu fóru á svipaðan veg.

Úrslitin á Sjómannasambandsþinginu marka tímamót í stéttabaráttu íslenskra sjómanna. Framundan er tími harðrar baráttu fyrir afnámi bráðabyrgðalaganna óskertri skiptaprósentu og endurreisn samtaka sjómanna. Heildarsamtök sjómanna verður þó enn að styrkja með því að hreinsa út menn á borð við Pétur Sigurðsson úr stjórnum félaganna og skipa þar stjórnir starfandi sjómanna sem þeir treysta.

/I. P.

# STOFNUN SAMTAKA HERSTÖÐVA-ANDSTÆÐINGA

## SKREF ÁFRAM - EN EKKI NÆGILEGA STÓRT

Nú hafa samtök Herstöðvaandstæðinga verið formlega stofnuð um það bil ´ri eftir Staparáðstefnuna. Við stofnun samtakanna hefur það áunnist að nú eru til liðsmannasamtök herstöðvaandstæðinga sem hafa lög sem í orði kveða á um að engir stjórnmálaflokkar skuli ráða ferðinni og allir liðsmenn séu kjörgengir til miðnefndar. Ennfremur var samtökunum sett stefnuskrá sem segir að "Samtök herstöðvaandstæðinga líta á störf sín og stefnu sem þátt í víðtækri baráttu gegn heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum, drottnunarstefnu og síauknum vígbúnaði hervelda."

Stofnun samtakanna gekk ekki átakalaust. Innan þeirra eru samankomnar tvær pólitískar meginlínur. Önnur línan, sem fyrst og fremst er túlkuð í málflutningi Fylkingarinnar, vill ekki berjast gegn sósíalheimsvaldastefnunni en skoðar Sovétríkin þess í stað sem verkalýðsríki og Varsjárbandalagið sem hernaðarbandalag verkalýðsríkja. Þessi pólitíska stefna hlaut á ráðstefnunni stuðning frá hluta alþýðubandalagsmanna. Hin afstaðan - sem er í algjörri andstöðu við línu Fylkingarinnar - er lína þeirra framsæknu afla sem eru reiðubúin til að berjast gegn hverri mynd heimsvaldastefnunnar og láta ekki blekkingartal heimsvaldasinnanna sjálfra villa sér sýn. Þessi stefna er studd af marxistum-lenínistum ásamt hluta alþýðubandalagsmanna og óflokksbundinna.

Stefnuskráin er að miklu leyti málamiðlun milli þessara tveggja hópa þar sem ekki er kveðið skýrt á um þau öfl sem ógna mannkyninu með nýrri heimsstyrjöld. Málamiðlun Fylkingarinnar felst aðallega í því að stefnuskráin segir að samtökin vilji berjast gegn skerðingu á sjálfstæði þjóðarinnar. Í upprunalegri tillögu Fylkingarinnar er ekki vikið einu orði að sjálfsákvörðunarrétti íslendinga og ekki minnst á önnur hernaðarbandalög en NATO

Fylkingin styður sum hernaðarbandalög

Deilan um það hvort fordæma bæri öll hernaðarbandalög setti töluverðan svip á ráðstefnuna. Björn Arnórsson (form. Fylk.) og Ragnar Stefánsson sögðu í sínum málflutningi að þeir gætu ekki samþykkt orðalag sem fordæmi öll hernaðarbandalög. Björn gekk svo langt að lýsa yfir að Fylkingin myndi kljúfa sig út úr samtökunum ef það yrði samþykkt.

Máli sínu til útskýringar sögðu þeir að þeir skoðuðu Varsjárbandalagið sem bandalag verkalýðsríkja og að fordæming á öllum hernaðarbandalögum væri jafnframt fordæming á þeim bandalögum sem þjóðir Indókína og Afríku hafa myndað með sér í baráttunni. Það er greinilegt að skammsýni þeirra meinar þeim að sjá muninn á bandalögum kúgaðra þjóða sem bindast samtökum til þess að berjast gegn heimsvaldastefnunni og bandalögum sem heimsvaldasinnar mynda til þess að efla kúgunartök sín á alþýðunni.

Eins og fyrr segir þá er stefnuskráin málamiðlun. En það sem hefur áunnist er að samtök herstöðvaandstæðinga lýsa sig reiðubúin til að berjast gegn allri skerðingu á sjálfstæði þjóðarinnar og gegn heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum, drottnunarstefnu og síauknum vígbúnaði hervelda. Þessi grundvöllur, svo langt sem hann nær, er framför frá því sem áður var og hálfur sigur yfir þeim öflum sem styðja blekkingartal heimsvaldasinnanna.

Starfið framundan

Stefnuskráin er leiðsögn til afhafna, ef ekki fylgir henni starf þá er hún dautt pappírsgagn - það veltur því á miklu að félagar hinna nýju liðsmannasamtaka herstöðvaandstæðinga færi hana út í starfi. Hið eina



til lengdar sem getur sameinað sanna and-heimsvaldasinna er rétt baráttulína og slík stefna fæst ekki nema í gegnum starfið.

Undirbúningurinn fyrir næsta þing samtakanna felst því ekki eingöngu í því að skrifa nýjar tillögur að grundvelli, hann getur aðeins orðið raunverulegur með því að starfa ötullega og leiðrétta það sem er rangt í núverandi grundvelli. -/hh

HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810.
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu stjörnunnar, Lindargötu 15.
Akureyri: Nanna Rögnvaldsdóttir, Byggðavegi 88
Suðurnes: Jónas H Jónsson, Holtsgötu 26 Njarðvík, sími 2641
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson, Hellisbraut 10 Hellissandi
Ísafjörður: Kristinn Karlsson, Fjarðarstræti 7

# KOSNINGAR DAGSBRÚNAR Á ASÍ ÞINGIÐ

Nokkrir verkamenn í verkalýðsfélaginu Dagsbrún, urðu heldur betur steinhissa þegar þeir fóru niður á skrifstofu félagsins nokkrum vikum fyrir ASÍ-þingið. Þeir ætluðu að spyrja um kjör fulltrúa á ASÍ-þingið, en fengu þau svör að það væri búið að kjósa. Varaformaður félagsins varð fyrir svörum og sagði að þeir hefðu auglýst eftir mótlista innan þriggja daga en enginn hafði komið. Þess vegna var listi stjórnarinnar sjálfkjörinn.

Auglýsingin fór framhjá öllum dagsbrúnarmönnum sem ég hef talað við, enda var hún ekki á áberandi stað í Þjóðviljanum og mörgum vikum fyrir þingið. Það þurfti að koma fram með fullskipaðan lista og hundrað meðmælendur og það á þrem dögum. Þetta eru reglur Alþýðusambandsins um kjör fulltrúa á Alþýðusambandsþingið

Menn hljóta að spyrja sjalfa sig þeirrar spurningar, í hverra þágu eru svona ólýðræðislegar reglur, afhverju þetta pukur? Jú, þetta eru aðferðir verkalýðsforystunnar til að koma í veg fyrir virkni félagsmanna og lama verkalýðsbaráttuna. Og við skulum hafa það hugfast að þeir sem beita þessum aðferðum eru jafnt íhaldsmenn sem og forystumenn Alþýðubandalagsins í verkalýðshreyfingunni. Þessir menn eru af nákvæmlega sama sauðahúsi og gamla Sjómannasambandsforystan sem sjómenn eru nýbúnir að sparka fyrir að svíkja hagsmuni sjómanna.

Það mun koma sá dagur að við gerum sams konar tiltekt í Dagsbrún og Alþýðusambandinu.

-/bsk

# STÉTTABARÁTTAN RÆÐIR VIÐ DAGNÝJU JÓNSDÓTTIR

# „Sjálfstæð verkalýðshreyfing verður til með samtakamætti fólksins"



Dagný Jónsdóttir / Selfossi.

Innan verkalýðshreyfingarinnar eru nú margir hlutir að gerast. Forystu Sjómannasambandsins hefur verið steypt og við tekið fulltrúar starfandi sjómanna. Innan Alþýðusambandsins er megn óánægja, sem einna hörðust er í smærri félögum verkalýðsins á landsbyggðinni. Tíðindamenn Stéttabaráttunnar brugðu sér austur fyrir fjall í byrjun október og tóku tali Dagnýju Jónsdóttur, varaformann Verkalýðsfélagsins Þórs á Selfossi. Spurðum við hana fyrst, hvernig hún liti á þróunina í kjaramálum frá því í vor og "baráttuhug" ASÍ-forystunnar.

Dagný: Þróunin hefur verið mjög slæm. Í kringum samningana í vor var sem menn tryðu á, að rauðu strikin myndu varðveita kaupmáttinn. Það hjálpaði til að útreikningar Þjóðhagstofunnar áttu að sýna mönnum fram á að samningarnir myndu ekki hafa kaupmáttarrýrnun í för með sér. Tíminn sem liðinn er frá febrúarsamkomulaginu sýnir hins vegar að ekki er hægt að treysta útreikningum ríkisins - enda er kjaraskerðingin orðin allt að 10-15%. Og reynslan af rauðu strikunum held ég að hafi sýnt fram á að það eina sem dugir er full vísitala, a.m.k. á láglaun.

ASÍ-forystan hefur algerlega brugðist verkafólki í landinu. Það mætti halda að hún væri á mála hjá atvinnurekendum. Hún var nógu róttæk fyrripartinn í sumar, þegar hún gaf út og dreifði pésa um kjaraskerðinguna sem þá var orðin. Hvað hefur svo orðið úr hótunum hennar? Ekkert. Annars sýndi ASÍ-forystan sitt rétta andlit þegar hún gerði allt sem hún gat til að draga úr verkakonunum á Akranesi í síðustu samningum.

Nú á samningsrétturinn að vera í höndum félaganna, en það vill ASÍ ekki sjá. Ef eitthvert félag rís upp, hagar ASÍ-forystan sér eins og atvinnurekendur - hún berst gegn félaginu. Hún vill alræðisvald í sínar hendur.

Stb: Hvernig líst þér í framhaldi af þessu á viðbrögð ASÍ-forystunnar við frumvarpinu að nýrri vinnulöggjöf?

Dagný: Ég hef ekki enn fengið að sjá þetta frumvarp, en eftir því sem ég hef heyrt er ein helsta breytingin, fyrir utan skerðingu á verkfallsrétti og aukna hlutdeild ríkisvaldsins í samningum, aukið vald miðstjórnar ASÍ.

Einnig grunar mig að hún sé að gæla við ýmsar kröfur atvinnurekenda, einkum þó síðast talda atriðið eins og ég sagði áðan. Ég er hins vegar þeirrar skoðunar að allar hugmyndir um að hægt sé að ná fram hagstæðum breytingum á grundvelli þessa frumvarps séu mjög varhugaverðar.

Vinnubrögð ASÍ-forystunnar í þessu máli finnst mér afar skrítin - raunar alveg forkastanleg. Hún hefur haft þetta frumvarp hjá sér síðan í vor en ekki dottið í hug að leggja það fyrir verkalýðsfélögin fyrr en nú í september. Þannig gefst okkur enginn tími til að kynna okkur frumvarpið og ræða það. Þessi vinnubrögð virðast beinlínis viðhöfð til að koma í veg fyrir fjöldabaráttu.

Stb: Hvernig brástu við þegar þú last stefnuskrártillögu Björns Jónssonar og félaga?

Dagný: Stefnuskráin er svo falleg að ég gat ekki tára bundist þegar ég las hana yfir. Ég sá fyrir mér algert sæluríki fyrir okkur verkafólkið á Íslandi.

En hrifningin dofnaði smám saman þegar mér varð hugsað til þess að þetta er ekki í fyrsta skipti sem ASÍ-forystan hefur skellt yfir okkur fallegum orðum og hvatt okkur til að standa saman í baráttunni fyrir smábroti af því sæluríki sem hún vill nú allt í einu koma á. Svo, þegar við stóðum eldklár til baráttunnar, full af eldmóði og áhuga, þurfa þeir ekkert á okkur að halda. Klíkan samdi við atvinnurekendur um nokkrar krónur en allt annað gleymdist!

Ég er því hrædd um að þetta séu aðeins innantóm orð og ekkert sé á bak við þau. Enda þætti mér gaman að sjá ASÍ-forystuna framkvæma þessa stefnuskrá á meðan hún er ekki á nokkurn hátt fær um að leiða verkalýðinn til sigurs í kjarabaráttunni í dag.

Raunar læðist að mér sá grunur að stefnuskrártillaga ASÍ sé sett fram sem eins konar dúsa upp í þá sem mest hafa gagnrýnt hana.

Stb: Nú hefur verið ríkjandi mikil deyfð í verkalýðshreyfingunni um langan tíma. Hver er helsta ástæðan?

Dagný: Þreklítil forysta og óvinveitt stjórnvöld. Það stendur ekki á fólkinu. Ef fólkið gæti treyst forystu sinni, þá er ábyggilegt að það legði ótrautt út í baráttuna. Og hvað snertir þá baráttu sem framundan er, þá er ljóst að félögin hafa gert allt of lítið til að tryggja fjárhagslegan grundvöll fyrir baráttuna - sem er mjög mikilvægt atriði. Þessu verður að breyta.

Það er einnig mjög mikilvægt að upplýsa fólkið betur um nauðsyn baráttunnar. Það er eina tryggingin fyrir að verkföll og aðrar aðgerðir beri árangur. En núverandi forysta stendur í vegi fyrir þessu.

Það er óhjákvæmilegt að andstaðan við uppgjafarstefnu ASÍ-forystunnar fari að dæmi sjómannanna sem hafa hafið sjálfstæða baráttu. Óánægjan er orðin það mikil eftir síðustu kjarasamninga. Það er einnig augljóst að andstaðan er einna mest meðal minni félaganna - enda eru forystumenn þar í mun nánari tengslum við verkafólkið en forystan í stærstu félögunum og ASÍ.

Ég tel það mjög mikilvægt að þeir, sem gera sér grein fyrir að það þarf að skipta um stefnu, skipuleggi sig og leiði fólkið til baráttu gegn duglítilli forystu, gegn vinnulöggjöfinni og fyrir endurreisn verkalýðsfélaganna sem baráttutækja. Sjálfstæð verkalýðshreyfing verður ekki til í samningamakki við ríkisvaldið og atvinnurekendur, hún verður til með samtakamætti fólksins sjálfs.

-/HB, ÓHS

# Lítið dæmi um ÍSAL öryggið

Eins og menn rekur minni til, hefur í haust og vetur verið talsvert fjallað um öryggismál og aðbúnað hjá ÍSAL í fjölmiðlum, einkum í Þjóðviljanum. Í þessum umræðum hafa forsvarsmenn álversins spilað út öllum trompum um hvað þeir geri mikið til að tryggja öryggi starfsmanna sinna. "Öryggisnefnd" álversins hefur verið mikið hampað, hún á að vera hinn óþreytandi og árvökuli aðili, sem vinnur að útrýmingu slysa í álverinu. Hitt hefur farið lægra, að trúnaðarmaður verkalýðsfélaganna sem sæti átti í nefndinni hefur sagt sig úr henni á þeim forsendum að hún geri ekkert til varnar slysum, heldur beinlínis komi í veg fyrir að slysagildrur séu lagfærðar. Og verkamenn álversins hafa bent á, að það sé ekki nóg að þekkja slysagildrurnar, það verði að gera eitthvað raunhæft til að koma í veg fyrir slys.

En þessar raddir hafa ekki fengið hljómgrunn í fjölmiðlum nema að litlu leyti. "ÍSAL gerir allt fyrir öryggið" er sá boðskapur sem alþjóð á að fá að heyra. En lítum á eitt slys, dæmigert fyrir mörg, þar sem "öryggiskjaftæðið" er afhjúpað, og sýnt fram á að "fína kerfið" vinnur gegn sjálfu sér.

Maður sem var við vinnu í skautsmiðju álversins fékk 170 kg þungan skautgaffal á hendi sér vegna þess að vélin sem hann var að vinna við var ekki fullkomlega í lagi. Hann skaddaðist nokkuð á hendi, og nauðsyn bar til að flytja hann í snarhasti á slysavarðstofu. En síminn sem nota átti til að hringja út sjúkrabíl var læstur inn á skrifstofu verkstjórans (slysið gerðist í matartíma). Sjúkrakassinn var líka læstur þar inni. Maðurinn var fluttur af slysstað með hendina vafða inn í dagblað. Þegar sjúkrakassinn var athugaður var ekkert í honum sem að gagni mátti koma við svona slys.

Þetta er lýsandi dæmi um raunverulegt ástand í öryggismálum álversins. Tækjabúnaður er úr sér genginn og meira eða minna bilaður, öryggisútbúnaður lélegur, og bein afleiðing af þessu: Mikil slysahætta og öryggisleysi.

# BARNAKENNARAR KREFJAST BÆTTRA KJARA

Nú síðustu daga hafa barnaskólakennarar í Reykjavík og víðar staðið fyrir aðgerðum til að krefjast bættra kjara. Ástandið í dag er á þá leið að barnaskólakennarar eru mun lægra launaðir en aðrir kennarar, og menntun þeirra minna virt. Ennfremur er lögð á þá mikil vinnuskylda sem þeir fá ekkert greitt fyrir, t.d. vinna við að fara yfir verkefni.

En barnaskólakennarar hafa ekki verkfallsrétt, og skilyrði þeirra til að heyja sína baráttu eru erfið. Þeir hafa gripið til þeirra aðgerða að kenna ekki dag og dag, en halda fundi til að ræða kröfur sínar og baráttuaðferðir. Hér í Stéttabaráttunni hefur að undanförnu verið fjallað um kjör og vinnuaðstöðu kennara, og við styðjum kennara heilshugar í baráttu þeirra fyrir að starf þeirra og hlutverk verði metið til fulls. Þessi barátta er liður í því að allir starfsmenn ríkis og bæja fái fullan og óskoraðan verkfallsrétt, en öllum tillögum ríkisvaldsins um takmarkaðan verkfallsrétt verði vísað frá. Það er mikilvægt til varnar lýðréttindum allrar alþýðu að allir hópar launþega hafi fullan og óskoraðan rétt til að semja sjálfir um kaup og kjör, og að þeir geti beitt þeim baráttutækjum sem henta, t.d. verkfalli.



# BARNAÞRÆLKUN Á HELLISSANDI

Unglingar á Hellissandi, sem annars staðar, hafa löngum verið mikilvægur vinnukraftur yfir sumartímann. Vilji unglinganna og óbilandi áhugi við vinnuna hefur oft verið gleðiefni atvinnurekenda, og vegna þess eru þeir óvægir við að nota þá til ýmissa starfa sem ekki eru talin vera við hæfi nema karlmanna.

Sem dæmi um þetta get ég nefnt að á síðasta sumri vantaði starfskrafta við útskipun á saltfiski í Hraðfrystihúsi Hellissands. Til þess ráðs var gripið að fá nokkrar unglingsstúlkur til þessara starfa (14-15 ára gamlar), ásamt fleiri starfskröftum. Til þess að fá unglingana að vinna verk þetta, var þeim lofað hærra kaupi, sem samsvaraði kaupi verkamanna á 1 árs taxta.

Hvort við þetta var staðið, er mér ekki kunnugt um.

Í þessu tilviki átti sér stað svívirðileg þrælkun á unglingum undir 16 ára aldri. Þó að staðið hafi verið við kauphækkunarloforðin í þessu tilviki réttlætir það á engan hátt svo svívirðilegt athæfi sem þetta.

Í rækjuvinnslu Ágústar Sigurðssonar í Rifi er nú unnið að hreinsun svokallaðra skelbita (úr hörpudiski). Verk þetta útheimtir þó nokkurn fjölda starfsmanna, sem þó aðallega eru konur. En í rækjuvinnslunni vinna einnig, þótt undarlegt megi virðast nokkur börn. Ég held, að þegar rætt er um vinnu hinsvegar, þá megi nota orðið "börn" um krakka á aldrinum 11-13 ára.

Engum finnst neitt athugavert við að börn séu fengin í vinnu og látin vinna jafnhliða fullorðnum konum. Og engum virðist heldur finnast neitt athugavert við þann aðbúnað sem þessi börn hafa við vinnu sína. Á meðan megin þorri kvennanna sitja við störf sín, verða börnin yfirleitt að standa, vegna þess að þau hafa ekki þor til að fá sínu framgengt.

En undarlegast af öllu er þó, að foreldrar viðkomandi barna skuli láta það líðast að börn þeirra séu látin vinna við aðbúnað sem þennan og það kaup sem þau hafa. En það er aðeins 198 kr. á tímann í dagvinnu, hjá barni undir tólf ára aldri, og rúmar 200 kr. hjá eldri börnum.

Það er kannski ekki að undra þó að Ágúst Sigurðsson geti byggt sér hús sem áætlað er að muni kosta tugi milljóna, fyrir þá blóðpeninga sem úthellt er á altari barna og unglingaþrælkunar á verstöðvum hans.

Það er ekki von að maður sem fékk lyklana upp í hendurnar frá "pabba", einn góðan veðurdag án þess að hafa komið nálægt rekstri þess skilji hvað er að þurfa að vinna fyrir lífibrauði sínu.

-/HAUS

# AZANIA: PAC leiðir frelsisbaráttu alþýðunnar

Dagana 18. - 21. október voru staddir hér á landi tveir fulltrúar þjóðfrelsissamtakanna PAC (Pan Africanist Congress) í Azaníu (S-Afríku). 20. október hélt Azaníunefndin fund í Lindarbæ þar sem þessir fulltrúar komu fram og skýrðu frá baráttunni í heimalandi sínu.

Mfanasekayja Gqobose, aðalgjaldkeri PAC og Vuyana Mngaza, fulltrúi PAC í Evrópu, röktu fyrir fundargestum gang baráttunnar og lögðu sérstaka áherslu á að skýra út þær tvær línur í frelsisbaráttunni sem hafa komið fram í Azaníu. Annars vegar er forysta ANC (African National Congress) sem er reiðubúin til samninga við Vorsterfasistana og elur á blekkingum meðal alþýðunnar um þingræðisleiðir til frelsis. Hins vegar er PAC sem fylgir leið alþýðustríðsins til frelsis og lætur engar "tilslakanir" hvítu kynþáttakúgaranna hafa áhrif á stefnu sína. Ennfremur lýstu þeir afstöðu PAC til afskipta heimsvaldasinna af baráttunni, en PAC fordæmir harðlega afskipti sósíalheimsvaldasinnanna og USA-heimsvaldasinnanna af málefnum Afríku.

Þeir Gqobose og Mngaza hafa ferðast um norðurlönd til þess að afla baráttu alþýðunnar í Azaníu pólitísks og efnalegs stuðnings, m.a fjárstuðnings. Íslenska Azaníunefndin, en að henni standa KFÍ/ML, EIK (m-l) og Rauð æska, hefur hleypt af stað fjársöfnun til stuðnings PAC.

Fjárframlög er hægt að setja inn á gíróreikning nefndarinnar nr. 72200.



# Stóð þingmaðurinn fyrir þessu?

Atvinnurekendur á Sandi hafa verið iðnir við arðránshlutverk sitt á liðnu sumri. Nú beina þeir spjótum sínum aðallega að unglingunum. Það er lítið tillit tekið til þess á vinnustað hvort unglingur eða fullorðinn maður er að verki. Unglingarnir eru látnir vinna sömu erfiðisvinnuna og fullorðnir. Því ber þeim að fá sömu laun fyrir störf sín.

En atvinnurekendur eru á öðru máli. Þeir hafa gert sér grein fyrir hversu gott vinnuafl unglingarnir eru og nota sér það óspart. Umsaminn taxti við unglingavinnu er mun lægri en verkamannataxti. En atvinnurekendur hafa ekki látið sér það nægja, heldur hafa þeir borgað allt að 40 kr. minna á tímann en þeim ber. Segjast þeir fara eftir taxta frá VSÍ. En sá taxti virðist vera mishár, eftir því við hvaða atvinnurekanda er að etja.

Heyrt hef ég að hvatamaður þessa athæfis sé Skúli Alexandersson, ásamt fleirum. Það væri gott til afspurnar fyrir "Verkalýðsflokkinn", Alþýðubandalagið, ef svo væri.

-/HAUS

# Baráttusinnaðir námsmenn skipuleggja sig

Þann 8. til 9. október sl. var haldin í Reykjavík ráðstefna baráttusinnaðra námsmanna í framhaldsskólum. Á þessarri ráðstefnu voru baráttuaðferðir framsækinna námsmanna ræddar og dregin lærdómur af uppgjafarstefnu Stúdentaráðs Háskóla Íslands og Kjarabaráttunefndar. Ráðstefnan ákvað að hefja án tafar undirbúningsstarf fyrir stofnun baráttusamtaka námsmanna. Hún kaus framkvæmdanefnd, sem skipuð er fulltrúum úr ýmsum skólum, en markmið hennar er að tengja saman baráttuna í hverjum skóla og stjórna aðgerðum.

Stofnun nýrrar námsmannahreyfingar hefur hleypt íllu blóði í forkólfa SHÍ sem telja stefnu sína heilaga og hafna yfir alla gagnrýni. Sú gagnrýni sem ráðstefnan hafði á stefnu KBN og SHÍ fólst í því að í fyrsta lagi var ríkisvaldinu lagt vopn í hendur með tillögum um verðtryggingu námslána og það sé hreinasti glópsháttur að ímynda sér að ríkisvaldið muni nokkru sinni binda endurgreiðslur tekjum að loknu námi, og enn fremur að SHÍ og KBN hafi tekið leið stéttasamvinnu fram yfir leið fjöldabaráttu með því að vera að makka við þingmenn Alþýðubandalagsins og Framsóknar á Alþingi í von um að þeir kæmu einhverju góðu til leiðar. Að mati þeirra sem að ráðstefnunni stóðu lá villa þeirra stúdentaráðsmanna í því að halda að til sé gott ríkisvald og slæmt, þ.e. gott ef Alþýðubandalag er í stjórn, en slæmt ef íhaldið er í stjórn. Svona stefna getur ekki leitt til annars en stéttasamvinnu.

Hefja verði til vegs baráttustefnu í öllum málum, og ráðstefnan gerði ályktanir um þau mál sem brýnust eru. Meginkröfur í kjaramálum námsmanna taldi ráðstefnan þessar:

1) Að allir framhaldsskólar öðlist sama rétt til námsaðstoðar, svo og að mönnum verði gert kleyft að hefja nám að nýju eftir þáttöku í atvinnulífinu
2) Að námslán nægi til fullrar framfærslu meðan á námi stendur, og að fullt tillit verði tekið til fjölskyldu námsfólks og búsetu.
3) Að verðtrygging námslána verði felld niður.
4) Að seinkanir verði ekki á útborgun lána.
5) Að námsfólk noti samtök sín til beinnar stuðningsstarfsemi við vinnandi fólk í stéttabaráttu þess.
6) Að SHÍ og Kjarabaráttunefnd geri upp við fyrri stefnu sína og hefji til vegs baráttustefnu í öllum samskiptum sínum við ríkisvaldið.

NÁMSMANNABLAÐIÐ
- Blað baráttusinnaðra námsmanna -
Barátta gegn úthlutunarreglum
BARÁTTA GEGN RÍKISVALDINU

# FRÁ VERKALÝÐSFÉLAGASELLU UM STÉTTABARÁTTUNA

Tillögur verkalýðsfélagasellu vegna ályktunar 2. landsfundar miðstjórnar KFÍ/ML um Stéttabaráttuna.

Orð eru góð en verkin tala best. Verkalýðsfélagasellan fagnar ályktun 2. landsfundar MS um Stéttabaráttuna, en fyrsti liður hennar er þessi:

"I. Ritstjórn blaðsins verði efld með:
a) Ritnefndarfélagar hafi starf fyrir blaðið sem höfuðverkefni.
b) Verkamenn og konur skipi meirihluta ritnefndar."

Skoðun okkar er sú að ritnefndarfélagar verði að starfa í grunneiningum flokksins til þess að þeir slitni ekki úr tengslum við hið almenna starf. Vissulega geta menntamenn og aðrir sem tilheyra ekki öreigastétt tekið rétta afstöðu með hagsmunum verkalýðsins, en verkamenn og konur hafa einmitt það sem er bráðnauðsynlegt fyrir ritnefnd, þau eru í beinum tengslum við framleiðsluna og standa í hinni daglegu baráttu við kapitalistana. Þess vegna krefjumst við að miðstjórn stokki upp í ritnefnd strax.

"2. Fjárhagur blaðsins verði réttur eins skjótt og unnt er með rukkun áskrifta, áskriftasöfnun og aukningu lausasölu, í því augnamiði að tryggja reglubundna útgáfutíðni og fastráðningu launaðs starfsmanns."

Tillaga okkar eru sú að nokkrir menn innan ritnefndar skipuleggi og framkvæmi rukkun áskrifta og útbreiði blaðið í sölubúðir. Þessi hópur gæti verið leiðandi fyrir allt útbreiðslu- og áróðursstarf blaðsins. Þessar ráðstafanir verður að gera fljótt áður en í óefni er komið.

"3. Miðlægar einingar og almennir félagar sameinist um að vinna allt starf sitt með tilliti til þess að Stéttabaráttan tengist verkalýðnum á vinnustöðunum."

Flott orð, segja einmitt það sem segja þarf. En hvernig tala verkin. Áróðursstarf flokksins beinist ekki að vinnustöðunum. Stéttabaráttan er aðeins seld á fáum vinnustöðum óreglulega. Höfuðverkefni sellanna á áróðurslega sviðinu verður að vera sala Stb. á vinnustöðum síns hverfis og gildir einu máli um hvort verkafólk er í sellunni eða ekki. Ef til vill er það helsta ástæðan fyrir því að Akureyrardeild KFÍ/ML er á botninum á áskriftarkvóta Stb. og öflun félaga úr verkalýðsstétt að þeir hafa ekki beint starfi sínu inn á vinnustaði, annars byggjum við ekki upp verkalýðsflokk.

"4. Skipulagning vinnu og frágangs verði með þeim hætti að unnt sé að koma við árangursríkri sjálfboðavinnu flokksmanna og stuðningsmanna."

Skipuleggja verður hópa undir ábyrgð og leiðsögn ritnefndar sem sjá um vinnslu blaðsins. Það verði að vera á hreinu að hver sella útvegi starfskrafta þegar þeirra er þörf. Við þurfum starfandi félaga en ekki kjaftaska, sem er alltof mikið um í flokknum í dag. Einnig verða giftir félagar að gefa konum sínum tækifæri til að taka þátt í starfi flokksins í stað þess að loka þær inni á heimilum yfir börnum og láta þær dragast aftur úr í pólitíkinni. Þetta er mikilvæg barátta gegn alls konar borgaralegum tilhneigingum sem lama starf flokksins.

GERUM STÉTTABARÁTTUNA AÐ RAUNVERULEGU VOPNI Í HÖNDUM VERKALÝÐSINS.

Takmarki áskriftarherferðarinnar er náð - alls hafa komið 214 áskrifendur á þessu rúmlega tíu mánaða tímabili. Eins og línuritið sýnir þá hafa lang flestir staðir uppfyllt þann kvóta sem þeim var sett að uppfylla, en nokkrir staðir hafa ekki náð settu marki.

Þó svo að þessari sérstöku herferð sé lokið þá þýðir það ekki að söfnun áskrifenda sé lokið- þegar reynslan af þessari herferð hefur verið rædd munu ný markmið taka við.

Baráttan fyrir vikublaðinu er ekki síst fólginn í því að afla blaðinu nýrra kaupenda - og þá fyrst og fremst fastra.

